Jón Thorstensen:
Hugvekja
um
Skaðsemi áfeingra drykkja.

Rv. 1847.

# Hugvekja

um

# Skadsemi áfeingra drykkja,

af

Júſtitsrádi, landlækni J. Thorſtenſen.

---



Koſtar innfeſt 8 rbſk.

---

Reykjavik.

Prentad í prentsmidju landsins af H. Helgasyni,

1847.



Þareð sá heiðraði forstjóri bindisfélagsins í Reykjavík hefir mælst til þess, að eg vildi semja stutt ágrip um verkun áfeingra drykkja á mannlegan líkama yfir höfuð, og um það hvort áfeingir drykkir væru mönnum þarfir eða óþarfir, rita eg þetta í stuttu máli, eptir því er eg hefi betst vit á.

Áfeingir drykkir er nú tíðkast manna á meðal, eru margskonar, og má eigi einn dóm yfir þá alla fella; vínberjasafi, er sá eini náttúrleigi og upprunaleigi drykkur, og er hann þresktur úr fullvoxnum vínberjum, er vaxa á vínviðnum víða um lönd, þó hvorgi í brunabeltinu, eða þar sem hiti er mestur, nálægt og á miðbiki jarðar, og ei fyrir norðan 50tu breiddar mælistig, né fyrir sunnan 45ta, því vínviðurinn þróast hvorki þar sem er mjög mikill hiti, eða talsverður kuldi; hann vex ennþá sumstaðar sjálfkrafa vestarlega í Asíu, og þaðan halda menn hann hafi gróðursettur verið, fyrst á eyunum fyrir vestan litlu Asíu, og á flestum eyum í Miðjarðarhafinu, í Grikklandi og þar norður frá, og á Vallandi, en seinna útbreiddu Rómverjar hann um sitt mikla veldi, þar sem hann gat þróast og vaxið.

Vinviðarávortur er svo gamall, sem mannkyns-sagan, og talar Biblían um að Nóa hafi orðið það á, að drekka ofmikið af víni eða vínberja safa, en líklegt er að mannkynið í barndómi sínum, hafi einkum etið vínberin af trjánum, eins og önn-ur trjáviðaraldini, áður enn þeir komust uppá að yrkja jörðina; og þareð vatnið í þeim lönd-um, er vínviður vex sjálfkrafa, þrýtur af sumar-hitum og þurkum, er líklegt, að berin hafi verið þeim velkomin til að svala sér á, og að þeir hafi lært að þreskja vökvann úr þeim, til þess að brúka hann sem svaladrykk, því hvörki vínber etin, né safi þeirra þresktur, hefir þá verkun að gjöra menn eins drukkna, og vínberja safinn gjörir það, þegar búið er að koma gáng eða ólgu (fermentatio) í hann; en það skéður á þann hátt, að miklu af honum er steypt saman í stór kéröld, og þetta látið svo standa opið við mátulégan il, þar til hann hefir ólgað um hríð, likt og nýgjört öl, en þegar ólgan er hætt, er lögurinn látinn á tunn-ur, og geymist hann svo leingi, og mörg vín batna eptir því sem þau verða eldri.

Þetta er nú það vín, sem eðlilegt er, en það er sjaldgæft að fá það óblandað, því eptir að menn fundu uppá að tilbúa vínanda (Spiritus eða Alkóhól kall-ast það í flestum málum) hvers seinna skal gét-ið, er allur fjöldi vintegunda meira eður minna með honum blandinn, og hafa því lángtum meira í sér af þeirri skaðlegu og áfeingu tegund, en þau upp-runalega eptir eðli sínu áttu að hafa, já mikill hluti

af þeim vínum sem eru seld og drukkin í þeim löndum hvar vínviður ekki vex, eru tilbúin í bænum, og hefir aldrei einn dropi af víni (þ. e. náttúrlegu) í þeim verið; t. a. m. er sagt um Madeira vínið, að á allri eyunni Madeira, vaxi ekki meira vín, enn einn tíundi partur af því víni, er með því nafni er flutt frá Lundúnaborg til annara landa og staða, og má geta því nærri, að mestur hluti af því víni er búinn til, því ekki flytst allt vín frá eyunni Madeira til Englands, heldur fer líka mikið af því til Portúgals og annara landa.

Þó nú vínsafinn hafi upprunalega verið mönnum til nokkurs gagns, hvar vínviðurinn óx og vex ennþá, t. a. m. til að svala sér á í miklum þurkum og vatnsskorti, og til að blanda litlu af honum í vatn, er flytjast þarf í belgjum á ferðum yfir lángar og vatnslausar sandeyðimerkur, svo eigi fúlni, eða til þess að styrkja menn á dálitlu af því saman við vatn, eptir lángar sóttir o. s. frv., þá er það og má kallast óþarfi fyrir oss Íslendinga, að brúka það til nokkurra muna í svo fátæku landi, því ekki gjörir það oss mikið gagn, heldur þvert á móti ógagn; af því flestöll vín eru blandin með meira alkóhóli enn þeim er eðlilegt, og sum að öllu leiti tilbúin í vínverksmiðjum af ýmislegum grasasafa og alkóhóli, svo er í þeim öllum meira eður minna af þessari ólifjan, eptir því sem þau eru áfeing, og að því skapi eru þau líka óhollari, sem meira alkóhól er í þeim, og meira og optar er af þeim drukkið.

Paradauki þurfum við þeirra ekki við, vegna

vatnsskorts, því meira og betra vatn eptir tiltölu, er varla í nokkru landi enn í Íslandi, og vatnið er af Skaparanum ætlað til drykkjar öllu sem lífsanda dregur, nema þeim úngu, meðan þeir eru brjóstmylkingar.

Að öðruleiti ætla eg að lýsa verkun vínsins á líkamann um leið og eg lýsi verkun alkóhólsins yfirhöfuð, því það er það eina sem í víninum er skaðlegt. Alkóhól, eður vínandi, er nokkurskonar þunnur gagnsær lögur, er hefir sterka lykt, og rýkur burt eða rírnar, ef í opnu íláti stendur, og er það aðal krapturinn í öllum hinum sterkari áfeingu drykkjum. t. a. m. brennivíni, hvort heldur það er kornbrennivín, jarðeplabrennivín, frakkneskt brennivín, Cognak — af vínþrúgum — Genever — af hveiti og einirberjum, — Wiskhy — af ýmsu korni — Arak — af hrísgrjónum — Romm af sikurúrgángi, o. s. frv.

Þennan vínanda fá menn nú af ýmsum tegundum, en í fyrstu mun hann hafa verið seiddur úr þurkuðum vínberjum; en þar við er sú aðferð, að berin eru látin í stóran ketil, helt síðan vatni á, og svo látin koma ólga eða gángur í, með ýmislegri aðferð, er þartil heyrir; síðan er þetta sjóðið í luktum katli, og gufan, sem uppaf stigur við suðuna, leidd í gégnum pípur, er gánga gégnum tunnu, fyllta með köldu vatni, yfir í lokað kér, hvar hún fellur niður í dropatali, eða gufan verður aptur að rennandi vökva, og þetta er Alkóhól, optast meira eður minna vatns blandað, eptir því hvað mikið maður vill fá af

vissum vinberja mælir; það sterkasta alkóhól kémur fyrst, en vatnsgufan eykst því meir, sem nær er geingið seiðnum. Sóm er hérumbil aðferðin, ef Alkóhól er tilbúið af korntegundum, en fá má það af öllu því, sem verður komið vinólgu i, (fermentatio spirituosa) og er það ærið margt; á seinni árum hafa menn búið ógrynni brennivíns til úr skémdum jarðeplum, og máské fleiru þaðanaf verra og ótérlegra. Romm er búið til úr því úrkasti og úrgángi, sem geingur frá sikri, einkum á Eyunum, er almennt kallast Vesturindialand fyrir austan Ameriku, og líka þar sem sikur vex i Ameriku sjálfri, og á Eyunum i kringum Austurindland; er þessum úrgángi opt fleigt i búnka undir berum himni, og skriða þar i ormar, skorkvikindi og pöddur, og síðan er öllu þessu steypt i seiðkétilinn, látið ólga, og svo farið með á líkan hátt, og nú var sagt um vinberin.

Hverr fyrstur hafi fundið upp á því, að búa til Alkóhólið, vita menn eigi, en til Norðurálfunnar kóm sú kunnátta með krossferðunum, eða varð almennari enn áður, á 11tu og 12tu öld, eða máské fyrri á Vallandi, því menn vita að Arabar og Serkir höfðu þá um hrið kunnað aðferðina, en þeir brúkuðu ei Alkóhólið til að drekka það — því trúarbrögð þeirra banna þeim að drekka áfeinga drykki — heldur höfðu þeir það fyrir meðal til að leysa i sundur ýmislegar harpixtegundir, og fleira, sem ei leysist i sundur i vatni, og er það enn þá brúkað svo á lifjabúðum, og líka til ýmislegra uppgötvana i náttúru=

frædi, er Arabar stundudu — og einkum brúkudu þeir þeskyns líf, eda medal til ad bera í andlit sér, og átti það ad gjøra hørundslitinn fegri, eda yngja menn upp aptur; var þetta medal í miklu afhaldi hjá arabiska kvennfólkinu, en sú þjód útbreiddist mikid frá því á 7du og allt fram á 11tu øld, bædi um Asíu, allt austur ad Ganges fljóti; um Nordur-Serkland, og um Nordurálfuna, einkum á Spáni; en þegar menn fóru ad komast uppá ad búa þad til í Nordurálfunni, ætludu menn, ad þarsem þad hjálpadi til ad gjøra hørundslitinn fegri tilsýndar — en raunar var þad ekki Alkóhólid sjálft, heldur þad, sem var uppleyst í því, og stundum var þurkad aptur, og gjørt ad smá-felldu dupti eda smyrslum, er høfd voru med ýmsu móti til ad auka og vidhalda fegurd manna, eins og alkunnugt er í Austurløndum — mundi þad betur yngja upp lífid og lífsfjørid ad drekka þad, og þad fóru menn nú ad reyna, og fundu, ad þad hressti ákaflega um stund, og kølludu þeir þad því lífsins vatn (aqva vitæ, þaraf akaviti), en sú hefir þó reyndin ordid, ad þad hefir ordid mørgum ad daudans vatni.

Leingi þar eptir var þad eigi kaupkirir, og ekki ad fá nema á lífjabúdum, og var enda brúkad lítid, nema hvad læknar brúkudu þad, bædi í medøl og vid tilbúning þeirra; var þad þeim einnig þarflegt, til náttúru-vísindalegra uppgøtvana, t. a. m. til þess ad skilja hlut-anna frumefni ad o. s. frv., og enn í dag er þad brúk-ad í handidna verksmidjum, t. a. m. til þess ad fága

trésmidi, en medal almúga var þad brúkad mjög litid, og þeir einu áfeingu drykkir hér á Nordurløndum, voru varla annad enn öl og mjød á hátídum, og í stórveitslum. En eptir því sem stundir lidu, og stórkaupstadir komu upp á 11tu og 12tu öld, nordan til á Þýzkalandi, fóru menn almennt í kaupstødum í Danmørk og Noregi ad hafa á bodstólum vín frá Sudurløndum, en ekki er brennivíns getid, sem almennt væri haft til sølu, fyrr enn eptir sidaskiptin, á 16du öld. Sídan hefir þad meira og meira ordid almenn verslunar-vara, og verid helst ofmikid brúkad til drykkjar, bædi af ríkum og úríkum, fródum og fáfródum, og alltaf hefir þetta heldur farid í voxt, þángad til snemma á þessari öld; þá sáu margir reyndir og vitrir menn, ad drykkjuskapur var ordinn ad enu mesta, algeingasta og skadlegasta óhófi vída um lønd; tóku þá nokkrir vitrir menn, og fyrst í Vesturheims fríríkjum, sig saman um, ad reisa skordur vid ofdrykkjunnar eydileggingu, því þeir sáu daglega og þekktu gjörla, ad hún hafdi gjört svo margar þúsundir manna bláfátæka, heilsulausa, og ørmagna bædi á sál og líkama, en ónýta til alls, og stytt mørgum þúsundum manna aldur, bædi med lángvarandi vanheilsu, og brádum dauda, og enn fremur verid orsøk til margra slisfara bædi á sjó og landi, ollad sundurlyndi, áflogum, manndrápum, ránum, þjófnadi, og mordvígum.

Þesskonar félagsskapur hófst fyrst í Bostons bæ 1813, kalladist þad félag hófsemdarfélag, því þess

augnamid var, ad reisa skordur vid allri ofdrykkjn, med þvi ad allir félagslimir mættu ad visu neyta áfeingra drykkja, en med mestu reglusemi, hófsemi og varúd, og þvi mátti einginn félagsbrædra nokkurutima verda drukkinn; gjordi félag þetta sér ad lagaskyldu ad útbreida sama hófsemis anda til annara landa og þjóda, med þvi i rædu og ritgjordum ad lýsa ofdrykkjunnar skadlegu afleidingum, bædi fyrir hvern einstakan drykkjumann, og fyrir allt mannlegt félag yfir hofud, og gjordi fjoldi manna ad þvi gódan róm; en þó vard þetta eigi ad svo miklu gagni, sem skyldi, af þvi ad hófsemi þýdir ei ætid þad sama hjá ollum, heldur er skilningur ordsins kominn undir samanburdi vid þad sem hverr kallar óhóf, og géta þvi hófsmenn enda drukkid toluverdt, þó aldrei verdi þeir drukknir, ef þad er vani þeirra, optlega ad brúka áfeingan drykk; en þegar þeir neyta hans, leidast þeir opt i freistni, og drekka meira enn gódu hófi gégnir; þvi svo er morgum monnum varid, enda þó þeir drekki skjaldan, ad þegar þeir hafa smakkad á brennivini, lángar þá meira og meira i þad, þángadtil vitid fer ad dofna, og þá er hvorki hugsad um hóf né annad, svo þeir verda drukknir um of; þetta kéndi reynslan hófsemis félaginu i Bostons bæ, og breytti félagid þvi logum sinum árid 1826 á þá leid, ad þeir gjordust bindindismenn, þ. e. einginn félagsmanna, skyldi bergja á neinum áfeingum drykk, nema í sjúkdómum og ad Læknisrádi, þvi þá var ekki hætt vid ad þeir leiddust notk-

rusinni i freistni Ef allir úngir og uppvaxandi menn vildu fylgja reglum þessa félags, þá yrdi øllum drykkjuskap útrýmt innan mannsaldurs, medal allra þeirra þjóda, er þýdast vilja þad heilla ráđ, ad hætta ad neyta allra sterkra og áfeingra drykkja, enda er þad innanhandar, þvi vel má án þeirra vera, eins og sjá má af þvi, ad mannkynid eigi hafdi neytt þeirra meir enn i 5,000 ár, edur allt framm á 16du old, eptir Krists burd — og voru þeir menn er þá voru uppi, i hid minnsta eins røsklegir og dugandi og heilsugóðir, einsog vér erum — heldur hefir af brúkun áfeingra drykkja, þar sem þeir eyda viti, fjøri, heilbrigdi, efnum, hjúskapar og borgaralegu samlyndi, risid allstadar, einkum þar sem mikil ofdrykkja hefir verid drottnandi, meiri ólukka fyrir lond og lýdi, enn máské hallæri, styrjold eda drepsótt hefdu gátad komid til leidar einusinni á hverjum mannsaldri, þvi slikar landplágur lida hjá einsog ofvidris stormar, en ofdrykkjan vinnur þar sem hún er komin mjøg i vort, daglega og ár frá ari illt eitt, og eydileggur eigur og sidferdi manna; þó morgum muni nú þykja hér ærid mikid sagt, er þetta þó satt, og er þad þvi þarflegasta ráđ fyrir alla þá eldri, er meira edur minna hafa drukkid um æfi sina, og eins fyrir þá, er aldrei hafa drukkid, ad hafna øllum áfeingum drykkjum, „þvi hverr hann stendur, gæti þess hann eigi falli."

Ad odruleiti má og benda til þess, er greinilega er ritad i 7da árgángi Fjolnis um bindindisfélog og áfeinga drykki yfir hofud, og þeirra verkanir, og á-

grips af bindindissögu Vesturheimsmanna, sem þar er itarlega tekin fram, svo og annara merkra bindindisfélaga, einkum i Stóra-Bretlands riki, hvar nú er sagt, að meir enn 7 milliónir manna séu komnar i fullkomið bindindi, sem þar hefir haft hinn betsta árángur fyrir siðferði, heilsu og velgeingni þjóðarinnar, einsog nærri má géta, því ef 80,000 dölum er á hverju ári eydt i þennan óþarfa, i því fátæka Islandi, auk þess timaspillis og óhamingju er af því flýtur, ræður að likindum, að ógrynni fjár muni eyðast i olfaungum i miklum þjóðlöndum, þar sem búa næstum 30 milliónir manna. En það liggur i augum uppi, að ef sami drykkjuskapur viðgeingst hér i landi i næstu 10 ár, kostar það landið 8 tunnur gulls, auk annara vandkvæða er þaraf leiða, sem að visu er meira varið i enn i féð, sem þannig geingur i sölurnar.

Þeir sem drekka brennivin eður annan áfeingan drykk til muna, fá strax sem það er komið ofan i magann, hita og ólgu i blóðið, og þetta verkar fljótt á heilann; eða með öðrum orðum, brennivinið orsakar ólgu eða brunasótt. — Feber — i hvert skipti sem það er drukkið; lifæðin slær tiðar enn áður, og menn verða einsog hressari og fjörugri um stundarsakir; sé þá bætt á sig meiru og meiru, verkar það eptir því meira á heilann, skikningarvitin verða sljófari, og þánkarnir einsog i þoku, og að lokunum fá menn svima yfir höfuðið, og þeir fara að reika, og missa vitið meira og meira; sumir verða málóða um stundarsakir, þykjast þá vera lángtum meiri menn enn þeir

eru, og adrir litilmenni hjá sér, en ad þeir einir hafi skyn á öllu, og geti um allt dæmt; eru þeir þá opt ekki svo ordvarir um og vid adra menn, sem skyldi, og hefir opt risid af slíku ordamál, áflog, o. s. frv. Þegar aptur rennur af þeim drukkna, er hann máttfarinn, linur og sifjadur, og finnst ad hann sé þreittur og sem lurkum laminn; og þarf hann þá optast ad sofa og hvíla sig, allteins og hann hefdi stadid ad stritvinnu, er þá líka opt vími og höfudverkur í honum eptirleidis; er hér af audrádid, ad sá sem drekkur sig útúr, og einkum leggi hann þad í vana sinn, veikir líkama sinn allteins og hann hefdi leigid í mörgum sóttum einni eptir adra, og þó hver ein væri eigi leingi, þá fylla þó margir dropar mælirinn. — En verst af öllu er þad, ad drykkjuskapurinn spillir vitinu, er manninum er gefid frammyfir skynlausu dýrin, því þegar einhverr er ordinn kófdrukkinn, er hann um leid ordinn ad skynlausri skepnu, en þad er hin mesta svívirding fyrir hvern þann, er hefur nokkra æru og sóma tilfinning, ad gjöra sig sjálfan ad villudýri; þad er þúngt ad horfa uppá skynsaman mann, sem ordinn er vitstola, án þess hann sjálfur hafi verid þess öllandi, en hitt er þó öllu gremjuverdara ad sjá drykkjurút, sem sjálfviljandi hefir gjört sig vitlausan, því hann gjörir ekki einúngis sjálfum sér svívirdu, heldur öllu mannkyninu, med því ad sýna hvad djúpt madurinn geti sokkid nidur í syndarinnar afgrunn, þegar hann sleppir adgætslu á sjálfum sér.

Sá sem því drekkur mikid ad öllum jafnadi,

og opt verdur drukkinn, venst svo vid brennivín, og hvada áfeinga drykki sem er, ad hann um tíma gétur drukkid mikid, án þess ad verda svo útúr, ad hann eigi geti bjargad sjálfum sér nokkurnveginn, en þad er ekki nema fáein ár ad svo geingur, því eptir því sem líkaminn veikist af drykkjuskapnum, fer allt þol, líf og fjör bædi á sál og líkama hnignandi, svo slíkir menn verda krapta litlir, þollausir, daufir, latir og ónýtir til allrar vinnu, huxunarlitlir, minnisljófir og eptirþánkalitlir, og ad lyktum verda þeir drukknir af einu eda tveimur staupum, og sífelt einsog hálfruglaðir.

Þegar þeir vakna af svefni, er leingi hafa drukkid mikid, sækir þá skjalfti og titringur, þángad til þeir eru búnir ad súpa sér 2 eda 3 staup á fastandi maga, en ad því búnu er einsog þad hálfdauda fjör lifni í þeim um stund, svo þeim finnst þeir verdi hressari; þeir borda optast lítinn mat, en þola sér ekki vid, nema þeir fái brennivín, ad minnsta kosti vid og vid, og eru þá þess sólgnari í þad, sem þeir fá þad sjaldnar, og drekka þá stundum svo mikid í einu, ad þeir velta útaf samdægurs; hefi eg sjálfur séd fleiri, er dáid hafa útúr ofdrykkju, og þar á medal einn mann, sem var litid yfir tvítugt. Þá fá drykkjumenn líka opt þá svokölludu brennivíns-feber (delirium tremens) eda skjálfta-feber, en svo kallast þessi sjúkleiki, af því hendur þeirra eru sískjálfandi, svo þegar þeir ætla ad taka hendinni til einhvers, ná þeir því ekki, því þeir geta ekki haft nokkra handa-stjórn; þeir

sjá allrahanda ofsjónir, orma og skriðkvikindi, hvar eingin eru; þeir þykjast líka stundum sjá djöfla, sem sitji um að ná þeim og kvelja þá, og eru ógurlega hræddir við þá; svo fylgir og svefnleysi þessum sjúkdómi og allskonar óróssemi; fá margir hann hvað eptir annað seinustu ár æfinnar, en flestir þeir, er fá hann opt, deya um síðir úr honum. Sumir fá líka vatnssýki, annaðhvort sjálfkrafa, eða upp úr öðrum sjúkdómi, og deya margir drykkjumenn úr henni — þó er lángt frá að allir sem deya úr vatnssýki, hafi verið drykkjumenn — og aðrir úr ýmislegum öðrum sjúkdómum, því margri vanheilsu getur drykkjuskapurinn ollað, og fullyrða má það, að búi einhver neisti til vanheilsu í líkamanum, þróast hann við drykkjuskap og brýst um síðir út í dauðlegan sjúkdóm, og það fyrr enn varir, og annars hefði orðið, ef hóffsemi hefði verið gætt, einsog vera bar. Margir deya og bráðum dauða, og líka af slísum, er orsakast af ofdrykkju.

Menn hafa eptir dauðann skoðað magann í morgum drykkjumönnum, og hefur hann ekki verið fallegur útlits innan; maginn í þeim, er mestmegnis hafa drukkið brennivín, er skorpinn saman, þykkur og seigur einsog leður, og er auðséð, að bæði er maginn orðinn minni enn eðlilegt er, og líka tilfinningarlítill, og meltingarkrapturinn að mikluleiti þrotinn, enda borða drykkjumenn lítið, og nærast að lyktum einúngis á fljótandi þunnum vökva; stundum er maginn svartblár innan, og stundum með dökkleitum blettum og rákum, og fer það eptir því sem hlutaðeigandi hef-

ir drukkid um dagana. Í þeim sem mestmegnis hafa drukkid romm, er maginn svipadur, ad ødru enn því, ad hann er allur meirari, og einsog sodhlaup ad innan, því rommid leysir allt hvad kjöttægis er í sundur, en brennivínid herdir þad, og dregur meira saman, en hvorutveggja spillir meltingarkraptinum vidlíka mikid, og verkar, med því ad komast inní blódid, á heilann og alla líkamans krapta, og drepur einsog eitur, ef opt er drukkid, annadhvort skyndilega eda med tímaleingd, sé þad eigi í mesta hófi brúkad.

Øllum þeim sem séd hafa drykkjumenn, er kunnugt, hvílíkur ófridur af ofdrykkju getur risid med morgu móti í mannlegu félagi; fyrst leidir af henni opt skada og illdeilur á heimili drykkjumannsins; hann eydir tídinni, glatar, týnir og skemmir optlega þad sem hann hefir medferdis, og þeir, er vilja hafa sig til þess ad nýta sér sjálfbakada vitleysu hans, geta haft hann í vidskiptum fyrir fé, því hann lætur fara med sig einsog hverr sá vill, er gefur honum í staupinn. Eg hefi þekkt þá menn, er ridu af heimili sínu med brennivínsfloskuna í vasanum, og unnu sér inn ærna peninga á því ad hafa hestakaup fleirum sinnum sama daginn, þarsem þeir ekki gáfu annad fyrir betsta hestefni, enn lélegan klár og nokkra brennivíns-sopa; og á líkan hátt mun opt tilgánga; menn eru sumsé eigi svo adgætnir, og fara ekki í nákvæman reikning þegar brennivínid er farid ad verka á þá, er þeim

þykir sig þá ei muna um hvert fiskvirdid, þó þeir máské sèu bláfátækir.

Hversu opt hefir eigi samlyndi hjóna breyttst í sundurlyndi og úlfbúd vegna svalls og drykkjuskapar? en þegar ófridur er kominn á milli hjóna, er öll reglusemi og stjórn úti á því heimili, bædi hvad vinnuhjú og barna uppeldi snertir, en þad og annad fer allt í svívirdingu; og þó er gód hússtjórn, hófsemi og hreinlæti, reglusemi, ydni, kostgæfni, skyldurækt, samlyndi, og gott sidferdi yfirhöfud á hverju einstöku heimili, hirningarsteininn og fóturinn undir velgeingni og framförum hverrar þjódar, einsog á hinn bóginn, sèrhver óregla í því tilliti, er undirrótin til heillra þjóda apturfarar og eydileggingar. Barna uppeldid er þó hid mest umvardandi atridi í hússtjórninni, en þad læra börn sem í bæ er títt, og þetta fer optast nær eptir annari reglusemi í hússtjórninni, því sjái börnin aldrei annad enn gott fyrir sèr, er þad án efa skjaldgæft eda einstakt dæmi, ad þau verdi óvöndud, þegar þau koma til vits og ára, en á heimili drykkjumannsins, sjá þau fyrir sèr bædi drykkjuskapinn sjálfan, og margt þad illt annad, er af honum leidir, en þad eru þvínær allir þeir lestir, er vanvirda mannlegt fèlag, því öllum dómendum ber saman í því, ad mestur hluti af þeim stórglæpum, illvirkjum og óhæfum, sem framdir eru, bædi í vorri heimsalfu og medal Vesturheimsmanna, sèu annadhvort framin í ofdrykkju, eda þá

ad ofdrykkja einhverníveigin hafi átt þátt í ad koma þeim til leidar.

Fátækt og féleysi leidir af óreglu og drykkjuskap hjá mörgum manni, er annars hefdi hæglega gétad verid sjálfum sér bjargandi, ef hann hefdi verid reglumadur, og haldid betur á því fé, er hann sóar út fyrir áfeinga drykki, og varid þeim tíma, líkamskroptum og fjöri, er þar vid spillist, til ad hafa ofanaf fyrir sér og sínum; og þó einhverr sé ríkur eda efnugur, og þykist hafa nóg efni til ad hressa sig med þessu móti, gétur hann varla varid fé sínu í annad verra enn í ølfaung, því lángt um betra er honum ad fleigja því í sjóinn, en ad verja því til ad kaupa áfeinga drykki, þar sem eg þori ad fullyrda, ad varla einn hundradasti hluti af þeim ølfaungum sem drukkin eru, gjörir nokkurt gagn, en þvert á móti kemur til leidar svo miklu ógagni og sidaspillingu í mannlegu félagi, ad ekki verdur tølu ákomid. Sæmra væri þeim sem ríkir eru, ad verja því fé, er þeir eigi þykjast þurfa med, til ad adstoda fátæka fjølskyldumenn, sem eru reglu- og atorku-samir, en þrátt fyrir þad eigi geta varist skuldum, af því þeir settu saman med lítil efni, og ómegd hledst á þá, eda þá, sem ordid hafa fyrir einhverjum slisum, eda voveiflegu fjártjóni, ellegar ad gefa þad fé til opinberra stiptana, eda gagnlegra almennings fyrirtækja. Þad má vera øllum sveitar og fátækra málefna forstødumønnum, í þeim hreppum, hvar mikill drykkjuskapur á heima, kunnugt, hvílíkur vesældómur, fátækt og ó=

mennsku honum er samfara, því mest sveitarþýngsli og flestir þurfamenn eru þar, sem drykkjuskapur er algeingastur, enda er það í edli sinu, því það er næstum minnst varid í hvað brennivínid kostar, en tíma spillirinn, ómennskan, letin, deyfdin og heilsuleysid sem það hefir í för med sér, það er mædan mesta; húsbændurnir deya á midjum aldri útúr drykkjuskap frá bornum á únga aldri, og þó sumir hafi sett saman med gódum efnum, er samt allur þorrinn svo illa ad efnum farinn, ad eigur þeirra naumast vinnast fyrir skuldunum, því med drykkjuskapnum var sem kæmi oll óblessun í eigur þeirra; verdur þá sú niðurstadan, ad bornin fara á sveitina, og fari þá svo, ad þau lendi þar sem drykkjuskapurinn er húsbóndans voggumein, má búast vid því, ad þau alist upp vid ósóma frá fyrsta til sídasta, og er þá vanséd, hvort þau géti lært svo mikid gott, ad þau verdi sér eda odrum til gagns, þegar fullordins árin taka vid.

Það getur eigi hjá því farid, ad mikil brennivínsdrykkja eda drykkjuskapur yfir hofud, dragi afarmikid fé útúr þeirri sveit, hvar þvílíkt vidgeingst. Þannig er t. a. m. árid sem leid, eda 1846, eptir þeim skýrslum, sem kaupmenn sjálfir sendu Landfógetanum, yfir inn- og út-fluttar vorur í Keblavík, Hafnarfirdi og hér í bænum, fluttar í land í þessum 3ur stodum, áfeingir drykkir uppá 32,000 rbd. og má það kalla ógrynni fjár í svo fátæku landi.

Hvad mikid fé flutt til Eyrarbakka og Vestmanneya, veit eg eigi med vissu, en væri það á bádum

þeim stodum, framt ad helmingi, af þvi sem nú er sagt, um þá 3 kaupstadi, vantar máské litid til, ad áfeingir drykkir séu fluttir til Sudur-amtsins, fyrir 50,000 dala virdi árlega, og þó flytja innbúar Austur-Skaptafellssýslu flestir vorur sinar til Djúpavogs, og versla þar, og þad sem þeir brúka af þesshattar vorum flyttst þar ad landi, en eg ætla ad þeir brúki ei eins mikid ad tiltolu — einkum þar eg hefi heyrt, ad bindindisfélog þróist þar vel; Nokkud flytst og svo i nálægustu hérod i Vestur- og Nordur-amtinu, helst til Mýrasýslu, hvar meiri hluti bænda verslar i Reykjavik.

Ef nú nálægt 50,000 dala virdi i áfeingum drykkjum flytst árl. til Suduramtsins — og þó ei væri meira, enn á milli 40 og 50,000 rbd., sem er víst — ætla eg meigi fullyrda, ad i hid minnsta annad eins, eda máské meira, flytjist til hinna amtanna til samans, þvi Nordur og Austuramtid hefir viðlika, eda litid eitt fleiri innbúa enn Suduramtid, og Vesturamtid hérumbil $\frac{3}{4}$ á móti hvorju hinna, og verdur þá likl-lega verdhæd allra þeirra áfeingu drykkja, sem árlega flytjast hingad til lands, um eda yfir hundrad þúsundir rikisbánkadala i reidu silfri.

Þvi má lika nærri geta ad þessi skadlegi óþarfi, hleypur fljótt upp i ærna summu, þvi þó á einu heimili ei sé brúkad meira enn einu peli brennivins ad tiltolu á hverjum degi — og mætti þad eigi sérlegt óhóf heita, ef fleiri enn einn drykkju þad — verdur

þad þó um árid . . . . . . . . . . . . 15 rbd. 20 sk.
Sé á odru heimili, hvar fleiri menn drekka,
daglega brúkadur hálfur pottur, hleypur
þad uppá . . . . . . . . . . . . . . . . 30 — 40 -
En þar sem máské margir vinnumenn fá
opt í staupinu, og géstanaud er mikil
getur upp og nidur eydst framt ad potti
daglega, en þad verda . . . . . . . . 60 — 80 -
en sá sem brúkar þad daglega í 20 ár, hefir þannig eydt ad lokunum 1216 rbd. 64 sk., auk þess, sem eydist í púnsch-extracti, víni og odru þesshattar, sem þó er lángtum dýrara, og hvad extractinn snertir, lángtum óhollara enn brennivín, einsog allt kriddad brennivín (liqveur), er ennþá verra og óhollara, enn einfalt brennivín. Þad er nú komid vída uppí vana ad brúka og hafa þessa áfeingu drykki, ad kalla má á hverju heimili, enda hjá þeim sem eru í skuldum, og þurfa ad fara margs á mis, sem er miklu þarfara; því menn íhuga ekki einsog skyldi, bædi hvílíkt ógrynni fjár med þessu móti eydist, og hvad skadlegar afleidingar þaraf fljóta; þarfara væri okkur ad kaupa meiri sápu, lérept og allt sem til þrifnadar heyrir, því oss er í því efni hér í landi mjog ábótavant.

Saga Vesturheims bindindismanna, sýnir þess morg dæmi, ad heil þorp og hérod, hvar ádur bjó lukka og hagsæld, urdu á fáum árum fátæktar, sjúkdóms og vesældar bústadur, eptir ad brennivíns solumenn hofdu tekid sér bústad á medal þeirra; ferdamenn

er fyrir 10 árum höfdu farid um í þvílíkum bæ, gátu ekki, þegar þeir komu þar í seinna sinni, skilid í því, hvernig á þessu gæti stadid, og þordu hvorgi ad koma inn, því þeir voru hræddir um ad drepsótt hefdi þar leingi geingid, og væri þar enn; allt var nefnilega í vanhirdingu, hús og akrar, og hvervetna ljós vottur fátæktar, óþrifnadar og ómennsku, gagnstætt því sem ádur var; um sídir höfdu þeir tal af konu nokkurri, sem sagdi þeim hvad til kom: „fyrir nokkrum árum, sagdi hún, fluttu sig hingad búferlum til okkar 2 menn, er einúngis höfdu romm, púnsch og adra áfeinga drykki á bodstólum, og vondust þá margir á ad kaupa þá, en hér var þá efna betsta fólk, og næstum eingir fátækir, og héldu flestir, ad sig mundi litid muna um ad kaupa dálitid af þessum hressingar medulum, en þad vard nidurstadan, ad á fáum árum voru margir af innbúunum daudir, jardyrkja og allir þeirra atvinnuvegir og búskapur er nú kominn í mesta ólag, og allir hér í nágrenni ordnir fátækir menn, og margir búnir ad missa heilsuna, en adrir hafa dáid brádum dauda, bædi ordid úti á náttarþeli, á heimferd frá drykkjubúdum, og líka odruvísi; akrarnir liggja ósánir, hús og girdingar nidast nidur, og hér eru margar ekkjur eptir med fjölda barna, sem einga fyrirvinnu hafa o. s. frv."

Þetta er sá rétti sveigill, sem sjá má í afleidingar af miklum drykkjuskap, og vidlíka geingur þad all-

stadar, því verri búþjófur er ekki til enn brennivín og þesskyns áfeingir drykkir.

## Mínar ástædur eru þessar:

1) Eg hefi sjálfur þá sannfæríngu, ad brennivín hverskyns sem er, sé eingum manni naudsýnlegt eda þarflegt til drykkjar, því reynslan hefir kennt mér, ad þeir menn eru heilsubetstir, þolnastir og sjúkdómum minnst undirorpnir, er aldrei drekka þad. Um gott og náttúrlegt vín má segja, ad eins og þad í sjálfu sér er sídur skadlegt enn brennivín, vegna þess þad er lángtum minna í því af vínanda, svo getur líka stadid svo á, ad þad sé gagn ad brúka dálítid af því einstökusinnum í máttleysi eptir lángvarandi sjúkdóma; saklaust er líka ad brúka dálítid af því í mat, svosem vínsúpur og þesshattar, en ad drekka þad daglega, er ekki ad eins óþarfi, heldur er þad líka skadlegt, ef þad er gjört ad daglegum vana ad drekka þad nokkud til muna, og þad því fremur, sem meira er í því af vínanda eda Alkóhóli, en **einginn drykkur** er eins **hollur og hreint kalt vatn**, bædi sem borddrykkur med mat, og svaladrykkur vid þorsta; þad er annars sidvenja hjá öllum þeim þjódum, hvar vínber vaxa, ad drekka næstum aldrei vín nema vatnsblandad, og þad þótti ósvinna hjá Rómverjum, þegar þeir voru uppá sitt hid betsta, ádurenn sidferdi þeirra fór ad spillast, og þeir urdu sællífir, ad drekka óblandad vín, (vinum merum), og svo er þad enn í dag á Vallandi. Sjálfur hefi eg opt bordad hjá

hjá Frökkum er hingad hafa komid, og blanda þeir allt vin med miklu vatni, nema Champagne vinid, enda er þad vin sidur enn ekki áfeingt. Ad ödruleiti ber öllum þeim er vída hafa farid um lönd, saman um, ad þad sé mjög skjaldgæft ad sjá drukkinn mann í þeim löndum sem vinid vex, þvi þar drekka menn hvorgi nærri eins áfeingt, heldur vatnsblandad og náttúrlegt vín, en þarámóti hér á Nordurlöndum drekkur almenningur mestmegnis brennivin öldúngis óblandad, sem er miklu skadlegra fyrir líf og heilsu manna.

2) Nú munu sumir mæla, ad þó þad sé óþarfi, og aldrei gagnlegt ad drekka brennivin, þá brúki madur svo margan óþarfann, t. a. m. tóbak og annad, er litid gagn sé ad; en þar til liggur þad svar, ad brennivin er ekki ad eins óþarflegt og ógagnlegt til drykkjar, heldur er þad öllum þeim óþarfa, sem menn hafa hitt uppá ad brúka, skadlegra og verra enn svo, ad þad geti komid i nokkurn samjöfnud vid nokkurn annan hlut. Grænlendingar hafa þvi med öllum rétti gefid brennivini þad nafn á þeirra máli, sem þýdir: **vitfyrrandi drykkur**, og þad táknar skiljanlega þess versta og skadlegasta eiginlegleika, og mætti brennivin þvi heita „**vitspillir**" á vora túngu, en þad á ekki heima hjá nokkrum óþarfa er vid brúkum. Sá sem aldrei hefir smakkad brennivin, hann lángar aldrei i þad, og þad atridi er þess órækur vottur, ad þad er eingin medfædd náttúrleg tilhneiging ad drekka þad. Svo sterkur drykkur sem

brennivín finnst hvörgi tilbúinn í náttúrunni, heldur er hann búinn til úr ýmsum hlutum, má og búa blá-sirú til úr ýmislegum ætum mat, en hún er þó sterk-asta eitur, sem menn þekkja.

Svo er og um loptid, sem vid drøgum ad okkur med hverjum andardrætti, ad ef þad er adskilid í þau frumefni, er finnast í því, verdur hver ein tegund eintóm og utaf fyrir sig banvæn, og einkuin verdur kofnunarloptid strax banvænt, ef þad óblandad er ad sér dreigid, en eintómt lífslopt, verkar í fyrstu ólgu og Feber — líkt og Alkóhól — en drepur sídan, þurfi madur leingi ad draga andann í því einsømlu.

Annad mál er um vínid, því ekki þarf annad, enn ad hella miklum vínberia safa saman í sumarhita, þá kemur ólga í hann, svo hann verdur næstum sjálf-krafa ad víni.

3) Auk þess ad allar brennivínstegundir spilla vitinu, æsa þær hjá allmørgum þá ósedjandi laungun til ad drekka af þeim aptur og aptur meira og meira, og med því verda þær loksins annadhvört skyndilega eda med tímaleingd, orsøk til margskonar meina, sem eg veit ad hefir ordid fjølda manns ad bana hér í landi, og stytt líf margra annara um toluverd-an tíma, sem ómøgulegt er ad ákveda nákvæmlega; og fer þad mjøg ad vonum, því brennivínid er sem eitur, bædi fyrir hvern einstakan mann, ef hann brúkar þad talsvert, og um lángan tíma, og eins fyrir allt mannlegt félag, þar sem þad ollir óróa, deifd, ódugn-

adi, fátækt, vesæld, sóttum og dauda, og er undirrót og uppsprctta til óteljandi illgjorda.

Málaflutningsmenn fullyrda nefnil., ad af sakamálum þeim er undir þá hafi borid, og risid hafa útaf illvirkjum, t. a. m. mordi, innbrotsþjófnadi, áflogum, meidslum, skemdum, lífs og limatjóni og þvinmliku, hafi flestoll annadhvort risid af, eda verid framin i drykkjuskap; sumir segja af 20 sakamálum, hafi 19 verid þannig undirkomin, adrir segja 11 af 12, eda 10 af 11, og enn nokkrir, og þeir eru flestir, segja 9 af 10, og þeir er taka minnst til, segja 15 af 20 eda 3 af 4.

Þad er algeingt, ad illvirkjar, sem alist hafa upp án þess ad lida skort, verda opt einmitt þessvegna skadlegir menn, ad þeir hafa sóad út eigum sínum i drykkjuskap, og eru þessvegna ordnir latir og duglausir til ad vinna; af því þeir hafa uppalist vid nægtir, una þeir midur vid fátæktina enn þeir sem jafnan hafa fátækir verid, því satt er máltækid: ad „margur er frómur þó fátækur sé," en þegar svona er komid, er ei annad úrrædid enn fara ad stela, eda máské i drykkjuskap ad láta narra sig i þjófa og illvirkja félag. Eg hefi lesid sogu af manni, sem var búinn ad sóa eigum sínum, og var ordinn bláfátækur vegna drykkjuskapar; hann átti konu og born, en þad var ekki einn málsverdur á bænum; eitt kvold geingur madurinn á drykkjustofu eptir vanda, og setst þar nidur i orvinglan, því hann átti nú ekki svo mikid, ad hann gæti keypt sér i staupinn; allar eigur hans voru

sumsé leudtar hjá brennivíns sölumanninum; en medan hann sat nú svona í aungum sínum, kom þar inn madur nokkurr, er hann opt hafdi séd ádur á þessum stad, en þó hafdi hann ekki haft nein kynni af honum ádur — þann er fyrri kom, kalla eg A, hinn seinni B, — B setst nidur hjá A, og bidur um 2 rommstaup, og gefur honum annad, en þvínæst taka þeir tal med sér, B tekur til orda: þér sitjid hérna annadhvort í þaunkum, eda þad liggur illa á ydur? A: þad er ekki von þad liggi vel á mér; eg á ofurbágt, því eg á konu og 6 börn heima, en einga björg í húsinu til næsta máls handa þeim. B: getid þér ekki unnid ydur neitt inn med handabla ydar? A: eg var timburmadur, og vann mikid framanaf æfinni, en sídan fadir minn sálugi dó, og eg hafdi erft verksmidju hans, hætti eg ad vinna sjálfur, en hélt nokkra sveina framanaf, þángad til allt fór ad gánga hjá mér í ólestri; sveinarnir toldu þá ekki hjá mér, og nú hefi eg leingi eingan haft, og allt hefir geingid af mér, svo eg er ordinn bláfátækur. B: Það er líka fjandans handleggja raun ad fást vid þetta trésmidi; eg gæti máské hjálpad ydur til ad komast úr þessum bágindum ef nokkur dugur er í ydur, því opt hefi eg unnid mér meira inn á einni nóttu enn 100 pund sterling — gullmynt er kostar 9 ríkisbánkadali hver — og gefur honum annad og þridja staupid, á medan þeir eru ad talast vid — „en þad hjálpar ekki ad láta sér allt fyrir brjósti brenna, því 100 pund sterl. tekur madur ei uppúr steinunum.„ A vissi ei hvadan á

sig stód vedrid í fyrstu; hann varð hálfgladur vid, því þorfin var mikil, en honum fór samt ekki ad verda um sel, því hann óradi fyrir, ad fiskur lægi undir steini, og tók því treglega undir í fyrstu, því manntetrid hafdi aldrei stolid ádur; þá hellti B á 4da staupid fyrir hann, og loksins kom ad því, ad hann sagdi, ad kunningi sinn hefdi sagt sér frá manni nokkrum er hefdi selt part úr stórri verksmidju er hann átti, og feingid í dag mikid fé borgad uppí smidjuna, mest í gulli, sem væri geymt í stúffu undir skrifstofubordi hans, og væri ei meir enn mannsverk ad ná fénu, enda væru þeir bádir fé-þurfi, því þó eg sé ógiptur, segir B., og eg ekki hafi fyrir neinum ad sorga nema sjálfum mér, verdur mér þó uppgángssamt, þar eg er svo lyndtur, ad eg vil heldur eiga gott, og lifa heldur deiginum skémur. Hann fékk líka óskastundina, því hann gat vid 6ta staupid unnid A til ad fara med sér, og brjótast inn í húsid og stela fénu; fóru þeir bádir med vopnum, því svo var rád fyrir gjort, ad drepa hvern sem yrdi var vid þá í húsinu, enn allt komst upp um þá, og þeir voru bádir heingdir eptir dómi litlu sídar. Mörg dæmi hefi eg lesid áþekk þessu, bædi í optnefndri bindindis-sögu Vesturheimsmanna, og í enskum dagblödum, bædi í the Times, the illustrated London News, og the Morning Chronicle, en nú er aftekid heingingarstraff á seinni árum í Englandi, nema fyrir mord, en allir þjófar eru fluttir af landi burt til Nýa-Hollands í Sudurheimi, en þessi saga er meir enn 20 ára gömul.

Menn hafa brúkad romm og brennivín, sem þau ofluguſtu vopn til ad útrydja heilum þjódum, og eru þess dæmi i Vesturheimi, en þar eru margir flokkar af hálfviltum þjódum, er þykir Nordurálfumenn, er þángad hafa flutt, hafi ránglega lagt land þad undir sig, byggt og yrkt, er þeir frá aldaodli þykjast vera ódalbornir til; eru margar af þessum þjódum hraustar, og gjora skadleg áhlaup á nýlendur þær er Bretar byggdu þar i fyrstu, og nú eru ordin fristjórnarríki, svoad þjódin hefir ordid ad halda mikinn her, og verja miklum kostnadi til landvarnar gegn slíkum árásum, og enda lidid margan ósigur i vopnaviðskiptum; þeir hafa þvi hitt uppá þad óskaráð' ad venja þá á drykkjuskap, bædi med þvi á fridartídum ad selja þeim romm, og med þvi ad venja þá hina herteknu menn, sem þeir nádu i bardogum, á drykkjuskap, en gefa þeim sídan heimfararleyfi, þegar þeir voru ordnir drykkjumenn, og þeim hefir ei brugdist bogalistin, þvi allir þeir þjódflokkar, er vanist hafa á drykkjuskap, hafa mist allan dug, þrek og þrótt, svo þeir hafa sídan bedid ósigur i hverri orrustu, og týnt tolunni svo hraparlega, ad nokkrir þeirra eru nú þegar lidnir med ollu undir lok, og þad eru ekki ordnir eptir af sumum fleiri tugir enn ádur voru þúsundir.

Allar þjódir gjora sér einhverja hugmynd um einhvern anda eda veru, sem upphaf og undirrót alls ills, sem skédur á jordunni og i mannlifinu; þeir gomlu Persar kolludu þessa veru Ahriman, en Bramas prestar i Austurindium, Shiwa, (þ. e. eydileggjara).

og Gydingar, vid kristnir, og Múhameds trúar játend- ur, köllum hann allir Satan eda Djöful, sem þýdir sama, eda þann sem í sidferdi manna leitast vid ad drepa nidur öllu gódu, en efla alla lesti og ódygdir med öllu móti. Þessi djöfull, eda hver helst fleiri tignarnöfn sem hann hefir, getur varla haft betra verkfæri til ad efla og útbreida ríki sitt á jördunni, enn alls- konar áfeinga drykki, og sérilagi allar brennivíns tegundir, því þær fæda ofdrykkjuna, en hún fædir, eflir og útbreidir ógrynni lasta og vesældóm medal mannkyns- ins, og margfaldar þá alla, í samanburdi vid þad sem á sér stad hjá þeim þjódum sem menntadar eru, og lítid eda ekkért brúka af þesskáttar áfeingum drykkjum; því þad er deiginum ljósara, ad þar fer betst framm, og öll velgeingni þrífst einkum þar, sem öll- um drykkjuskap er útrýmt, einsog í mörgum hérodum, bæum og sveitum í Vesturheims fríveldum, enda blómg- ast þar öll velgeingni og gott sidferdi, og er þad án efa sprottid af bindindisfélögunum, sem þar þrífast svo æskilega, ad menn ferdast marga daga samfleytt þar í landi, án þess ad verda varir vid brennivín, og vilji einhverr ferdamadur fá sér þar í staupinu, starir fólk á hann med undrun, og vísar honum til næstu lifjabúdar, því annarsstadar er brennivín ófáan- legt. og ekki vidhaft nema vid medala tilbúning, því allvída þykir þad ósvinna ad hafa þad á bodstólum.

Þad mundu þykja ofgar og óþolandi byrdi, ef 80,000 rbd., — eg vil ekki fara því framm ad meira fé gángi árlega til eintómis óþarfa, eda til

olfánga, — væru lagdir sem skattur á þetta fátæka land, en fáir verda til þess ad kvarta yfir því, ad jafnmikid fé geingur á hverju ári útúr landinu fyrir þann skadlegasta óþarfa, sem nokkurntíma hefir brúkadur verid; ef menn því vildu koma sér saman um ad spara þessar sjálfskopudu álogur, sem ad mestu leiti eru goldnar í fordjörfunarinnar sjód — því kirkjuvín handa öllu landinu ætla eg muni nægja fyrir 1000 dali árlega — gætu menn af öllu því fé goldid einn fjórda part til landsins og stjórnarinnar þarfa, en stúngid hinu í sinn eigin sjód, og þaradauki komist hjá öllum þeim tímaspillir, skada, óhoppum, sidaspillíngu og óreglu, sem af drykkjuskapnum leidir, og í þetta er meira varid enn í féd, sem eydt er í olfaungum. Þad er ad vísu satt, ad þeir hófsemismenn eru til, sem þó þeir endur og sinnum bragdi dálítid af áseingum drykkjum, ekki verdur meint vid þad til muna, en af því brennivín er ordid svo almennt, og þad er drukkid svo lángt framm yfir allt hóf, fæ eg ekki séd frammá önnur úrrædi til ad útrydja drykkjuskáp med rótum, og ad vísu ekkert betra medal til þess, enn almenn bindindisfélög, því drykkjuskapurinn er í því atridi svipadur krabbameini, ad sé nokkurr ángi eptir af því, og þad ekki sé skorid burtu med rótum, má aldrei vita nema meinid taki sig upp aptur af þeim litla ánga, og svo er og um brennivínid, ad á medan þad er drukkid enn sem komid er svo almennt, og þó med hófi væri, er ekki enn þá búid ad uppræta þetta átumein til hlýtar. Þad væri því óskandi

ad heilar sveitir og sýslur vildu taka sig saman um ad kaupa ekkert brennivín edur áfeingan drykk, né hafa þesskonar á heimili sínu og jafnvel ekki í sveitinni, og sjá svo hvernig færi framm eptir nokkur ár, því reynslan er sá betsti skóli, og raunin er ólygnust; en þad má ad vísu fyrir framm fullyrda, ad eingan muni nokkurntíma þurfa ad ydrast þess, ad hann hafi studt ad því, ad útrýma og reisa skordur vid brennivíns-drykkju, en brennivín kalla eg med sameiginlegu nafni alla sterka og áfeinga drykki, sem hafa mikid í sér af Alkóhóli í hverjum hundrad pörtum, nefnilega:

| | | |
|---|---|---|
| Danskt brennivín, er optast inniheldur hérumbil helming af hreinu Alkóhóli, eda . . . . . . . | 50 | af 100 |
| Romm, ýmislega, á milli . . . . 50 og | 60 - | — |
| Génever . . . . . . . . . . . . . . . . . . . | 51 - | — |
| Cognac, eda frakkneskt brennivín . . . . . | 56 - | — |
| Whisky, eda enskt brennivín, optast, hérumbil | 54 - | — |

Þetta eru nú þær helstu og sterkustu tegundir af brennivíni, og med þeim má telja allan kriddadan brennivíns - blending (Liqveurs), sem er þadanaf verri, extract o. s. frv.

Hvad víninu vidvíkur, eru tegundir þess svo margskonar, ad eg hvorki gét talid þær upp allar, né heldur hirdi eg um ad nafngreina adrar enn þær, sem eg veit ad hér í landi hafa verid hafdar á bodstólum, en þær eru:

| | | |
|---|---|---|
| Portóvín, inniheldur meir eda minna af Alkóhóli . . . . . . | frá 20 til 26 | af 100 |
| Madeira . . . . . . . . . . . . | frá 20 til 25 - | — |

| | | |
|---|---|---|
| Sherryvin eda Xeresvin . . . | frá 18 til 20 | af 100 |
| Raudavin frakkneskt, ýmislega . | frá 11 til 15 - | — |
| Champagne . . . . . . . . . . | frá 11 til 13 - | — |
| Rinarvin, ýmislega . . . . . . . . . . . . | 10 - | — |
| Mjod optast milli . . . . . . . . . | 7 og 8 - | — |
| Flest oll onnur vin ýmislega milli | 10 og 20 - | — |

En skadsemi þessara og annara vintegunda, fer eins og ádur er sagt. eptir því hvad mikid er í þeim af Alkóhóls samblandi, og þvínæst er allt komid undir því hvad mikid og hvad opt menn drekka vin, sem og því atridi, hvert menn blanda það med vatni, eda drekka það einsamalt.

Eg þekki varla uppbyggilegri rædu, ad bæta hér vid um ofdrykkjuna, en þá sem Sverrir Noregs konúngur, hélt í Bjorgvin seint á 12tu old, þá er ó=spektir og manndráp hofdu þar nýlega ordid milli Nordmanna og Þýdverskra af ofdrykkju, en hún hljód=ar svona: „Nokkoru sidarr hafdi Sverrir konúngur þing í bænum, taladi ok mælti: vér viljum þakka higatkvamu ollum enskum monnum, þeim er higat flytja hveiti ok hunáng, (flúr eda klædi); sva viljum vér ok þakka þeim monnum ollum, er higat hafa flutt lerept eda lín, vax eda katla. Þá menn viljum vér ok tilnefna, er komnir eru af Orkneyum eda Hjalt=landi eda Færeyjum eda Islandi; ok alla þá er higat hafa flutt í þetta land þá hluti er eigi má missa, og þetta land bætist vid. En um Þýdverska menn eru higat eru komnir mikill fjoldi, ok med stórum skipum, og ætla hédan at flytja smjor ok skreid, er

mikil landeyða er at þeirri brotslutningu, en hér kemur í staðinn vín, er menn hafa til lagzt at kaupa, hvarirtveggju minir menn ok bæarmenn eða kaupmenn; hefir af því kaupi mart íllt staðit, en ekki gott; hafa margir hér týnt sinn lífi fyrir þessa sök, sumir limunum, sumir bera annarskyns örkuml, allan aldur sinn, sumir svívirðing, verið særðir eða barðir; ok veldur þessu ofdrykkja. Kann ek þeim Suðurmönnum mikla óþökk fyrir sína ferð, ok með því at þeir vili halda lífinu eða fé sínu, verði þeir í brautu héðan sem fyrst; ok hefir þeirra örindi orðið oss úþarft ok voru ríki. Þér meguð áminnast, hvat efni ofdrykkjan er, eða hvers hon aflar, eða hverju hon týnir. Þat er hit fyrsta, er minnst er at telja, at sá er ofdrykkjuna þýðist, þá fyrir lætur hann allan fjáraflann, ok tekr þar í mót ofdrykkjuna ok hennar andvirði, týnir öllu fénu ok glatar; þvíat sá maður er áður var fullsæll at fénu, þá verður hann vesall ok valaðr, ok fátækr, ef hann fyrirlætr hana eigi. Sá er annarr löstr ofdrykkjunnar, at hon týnir öllu minninu, gleymir ok því öllu, er honum væri skylt at muna. Þat er hit þriðja, at þá gyrnist hann alla hina röngu hlutina; hræðist þá ekki at taka fé með röngu, og svo konur. Sá er hinn fjórði lutr ofdrykkjunnar, at hon eggjar manninn at þola engan hlut, hvartki orð né verk, gjalda öllu í móti hálfu meira íllt, en til sé gert; ok þar umfram eggjar hon þess at leita lastmæla á þá er úvaldir eru. Þessi hlutr fylgir og ofdrykkjunni, at maðurinn þreytir líkamann sinn, sem hann má at þola vandræði, mæðast

af vökunum, týna blóðinu í öllum liðunum, ok spilla blóðinu til vanheilendis, ok þarmeð týna allri heilsunni. Ok þá er sua er þúnglega komit, at fyrirfarit er af ofdrykkju allri eigunni ok heilsunni ok þarmeð vitinu, þess eggjar hon þá at fyrirfara því, er aðr er eigi týnt, en þat er sála hans: þá éggjar hon þess, at vanrækjast allri réttri siðsemi og réttum boðorðum, en gyrnast syndirnar, ok afhugast allsvaldanda Guði, ok öllu hinu rétta, minnast á engan hlutinn þann er hann hefir gert. Litit nú á ofdrykkjumennir þá er þér skilizt frá öllu í senn drykkjunni ok lifinu, hvat líkast er, hverr þá man viðgripa sálunni: minnizt nú á hversu ólíkt þetta líf er því er vera skyldi; því at öllum hlutum skyldi stilling fylgja; hermenn skyldu vera hógværir í friði sem lamb, en í úfriði ágjarnir sem Leon; kaupmenn og bændr skyldu ok fara sva með sinu edli, afla fjárins með réttu, ok þó með erfiði, gæta með vizku, en veita með mildi; en hinir er minni eru skulu vera þakklátir, þjóna og hverr sinum yfirmanni með góðum vilja ok eftir sinum efnum. Konúngurinn lauk sva málinu, bað sina menn vera siðsama ok friðsama við bæarmenn og bændur eða kaupmenn; var þetta mál velrómat af öllum vitrum mönnum, og þótti vel talat.

---

Eg er þannig í stuttu máli, og einsog eg hafði faung á, búinn að drepa á hin helztu atriði í því hér umrædda málefni; eg hefi tekið það einkum framm, sem

eg hélt almenningur væri ófródastur í, sumsé í því hvad áfengir drykkir væru óhollir og skadlegir fyrir líf og heilsu manna; verid getur þad, ad sumum kunni ad þykja ad eg hafi sumstadar tekid djúpt í árinni, en þegar betur er adgætt, vona eg lesendur mínir láti ásannast, ad eg í öllu verulegu hafi rétt ad mæla; eg er mér þess medvitandi ad mér gekk gott til, þegar eg tókst á hendur ad semja þessa stuttu hugvekju handa löndum mínum, og eg treysti því ad gott ord finni gódan stad, enda er málefni þad, sem hér rædir um, miklu vardandi, og meira í þad varid enn almenningur virdist ad ætla; og er þad því gódra gjalda vert ad vekja eptirtekt á því einsog þad er í edli sínu. Þykir mér eiga vel vid ad enda þessi ord mín med ordum þjódskáldsins, Eggerts Olafssonar, en hann saung svona fyrir meir enn mannsaldri sídan:

Hjálpudust ekki ádur
elztu börnin mín?
síst þó smakka nádu
sykur brennivín,
ekki tóbak eda te;
vitlaus öldin verdur nú,
nema vökvud á því sé.

